# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga.*
*gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

17. ÁRG. WINNIPEG, FEBRÚAR 1903. NR. 12.


## Sálmr

**eftir séra Steindór Briem út af 6. sálmi Davíðs.**

(Lag: Fyrst boðar guð sitt blessað náðarorðið.)

1. Ó, drottinn, guð, mér refsa ei í reiði,
og rek mig ei frá þér; eg heitt þess beiði,
og lát mig ekki lengr þjást og pínast,
og líf og sál ei örmagnast og týnast.

2. Mitt líf er veikt og limir mínir titra;
nú líðr sálin kvöl og angist bitra.
Ó, ljúfi faðir, lækna sálu mína;
eg legg mig undir náð og miskunn þína.

3. Ó, lít til mín, því lengr stenzt eg eigi.
Eg lofa þig ei fremr þótt eg deyi.
Í dauðanum þín minnist enginn maðr;
þú munt í helju' ei fremr vegsamaðr.

4. Eg þreyttr orðinn er, minn guð, að gráta;
eg græt og kveina fram úr öllum máta.
Eg mína sæng með söltum tárum væti
og sé ei neitt, er raunir mínar bœti.

5. Mitt auga' er sært af gráti, hryggð og harmi
og hjartað er sem slitið mér úr barmi,
og ellisvipr á mér sýnist vera,
því orðið hefi' eg þungan kross að bera.

6. En víki frá mér hryggð og illir andar;
nú enginn framar sálu minni grandar,
því drottinn heyrði mínar bljúgar bœnir,
frá böli leystr andinn til hans mœnir.

7. Já, þó að stundum illir andar freisti,
er óhætt þeim, er guði' af hjarta treysti,
því sannorðr og trúr er guð og góðr
og gœzkuríkr, mildr, þolinmóðr.

## Trúin og biblíu-‚kritíkin‘.

**Þýtt úr bók Heuchs biskups „Mod Strömmen"—sjötta þætti.**

Meðal trúaðra manna eru þeir víst eigi fáir, sem ekkert í nýju guðfrœðinni fær svo mikillar áhyggju eins og ‚kritíkin‘, sem svo vægðarlaust er látin ganga út yfir guðs orð, sérstaklega gamla testamentið, og tæta það sundr. Ritvissu bókanna í biblíunni er neitað. Flestar þeirra eiga að vera í letr fœrðar af öðrum mönnum og á öðrum tímum en þær sjálfar segja til, vera fullar af mótsögnum og í heild sinni að mörgu leyti óáreiðanlegar. Engin furða er það því, þótt trúaðir menn, sem eru svo vel að sér, að þeir geta fylgzt með í því, er ‚kritíkin‘ hefst að til þess að rífa niðr, en hafa hins vegar ekki nógu mikinn vísindalegan lærdóm til þess að vinna á ‚kritíkinni‘ með hennar eigin vopnum, — sem vissulega má með örfám undantekningum segja um oss alla, — sé hræddir um, að vísindunum nýju takist að kippa hinni föstu undirstöðu undan trúnni með því í öllum áttum að vekja efa um áreiðanlegleik þess orðs, sem trúin lifir á.

Engu að síðr er það ætlan mín, að trúaðir menn hafi ekki ástœðu til að vera svo mjög hræddir. Slík hræðsla verðr ekki, sýnist mér, samrímd fullvissunni um það, að orðið sé í raun og veru *guðs* orð. Því *guðs orð* hlýtr í sjálfu sér að hafa það afl í sér, að enginn *mannlegr* heilaspuni, hversu vel og vísindalega sem frá honum kann að vera gengið, getr svift það mætti til að bera vott um sannleik sinn fyrir sérhverri samvizku, sem vill heyra guðs orð og varðveita það.

Aldrei hefir víst guðs orð sætt skœðari ,kritík' en þeirri, er beitt var við fagnaðarboðskapinn, þá er postularnir báru hann fram fyrir Gyðingalýð og heiðingjaheiminn ; aldrei meir en þá gjört sér far um að tæta guðs orð sundr, merja það og hæða. Einber heimska var það þá í augum manna. Með tilliti til þess kallar Páll boðskap sinn ,,heimsku prédikunar þessarar"*) og efni þess boðskapar ,,hið fávíslega frá guði". En myndi nokkuð fyrir þá sök bera á kvíða fyrir því, að speki spekinganna kynni að gjöra trúna ómögulega, að vitrleiki vitringanna kynni að gjöra orðið að engu? Mjög fjarri því. Postulinn er algjörlega rólegr í fullvissunni um það, að ,,hið fávíslega guðs sé mönnum vitrara" og að guði hafi þóknazt ,,að gjöra þá með heimsku prédikunar þessarar hólpna, er trúa, en að hann hins vegar muni ,,gjöra að engu spekinganna speki og ónýta vitrleik hinna vitru." Og þannig reyndist það einnig. Með sigrsæld sannaði guðs orð mátt sinn og umskapaði mannshjörtun, þar sem aftr á móti ,kritík' og speki þeirrar tíðar er fyrir æfa löngu fallin í gleymsku hjá öllum, sem ekki hafa fyrir því að grafa hana upp úr gömlum bókum.

Það, sem um fram allt ríðr á á þeim tíma, er ,,vísindunum" þóknast að setja sig upp yfir orð biblíunnar, er það, að söfnuðr trúaðra manna gjöri sér það fyllilega ljóst, *hvað það þýðir, að ritningin er guðs orð*, — *á hvern hátt hver einn trúaðr maðr hefir um það orðið sannfærðr og samkvæmt hlutarins eðli getr um það fengið vissu*, -- *hvernig ,kritíkinni' verðr að mæta*, —og *hve háskalegar afleiðingar það getr haft, ef menn ætla að mæta henni á þann hátt, sem fer í bága bæði við eðli guðs orðs og trúarinnar.*

En áðr en eg tek að gjöra nákvæmari grein fyrir öllu þessu verð eg þó að varna því, að eg verði svo misskilinn eins og það væri skoðan mín, að biblíu-,kritík' sú, er nú við gengst, sé alls ekki neitt hættuleg, eða jafnvel, eins og nýgrœðingarnir hjá oss einatt staðhœfa, að þar sé ráð til þess fundið að gjöra mönnum ritninguna enn kærari en áðr, af því

*) Í íslenzku biblíunni stendr á stað þeim, er hér er átt við (1. Kor. 1, 21): ,,með einfaldlegri kenning", en það er ekki nákvæm þýðing orðanna í frumtextanum gríska.

að nú verði hún með öllum sínum göllum mannlegri og fœrist oss nær, — að sínu leyti eins og sagt er um Jesúm þann frá Nazaret, sem ,,vísindin" láta verða svo grunnhygginn, að hann talar af sér. Nei, því skal föstu haldið, að mér virðist annað eins tal af hálfu trúaðra manna óskiljanlegt. Mér dylst það sannarlega ekki, að hin roggnu og reigingslegu vísindi, þegar þau eru að byltast um í heilagri ritning og toga í hana, svo að lítið af heilagleikanum verðr þar eftir, geta orðið margri sál til hins mesta tjóns.

Reyndar ætti þeir, sem dálitla reynslu og þekking hafa, að vita, að aftr og aftr hafa ,,vísindin" kollvarpað niðrstöðu þeirri, er þau áðr þóttust hafa komizt að, og fitjað svo upp að nýju, og þó í hvert skifti, er þau nokkrum árum seinna fundu eitthvað nýtt, með sama óskeikulleik lýst yfir því, að það væri sannleikr, eins og áðr var gjört, að því er hitt snerti, er síðar reyndist óáreiðanlegt. Þannig minnist eg þess frá námsárum mínum, að Þjóðverjinn Ferdínand Baur, prófessor og doktor, hinn lærðasti hinna lærðu, hafði fram leitt frábærlega merkilegt lærdómskerfi, og samkvæmt þeim vísindum var allt nýja testamentið ósanninda-samsetningr, að undantekinni Opinberunarbókinni og nokkrum smábrotum af bréfum Páls — eftir því, sem eg bezt man. Og með svo mikilli hvass-skyggni og listfengi var kerfi þetta saman sett, að trúaðir guðfrœðingar höfðu enga von um að geta rifið það í sundr eða sannað ógildi þess. En hver er sá nú fjörutíu árum síðar, sem spyrji eftir Baur eða Tybingen-skólanum hans? Öll sú hreyfing er nú að eins eitt blað í sögu guðfrœðinnar; og þeir, sem á vorum dögum ráðast á rit nýja testamentisins, gjöra það samkvæmt allt öðrum meginreglum.

Og að því er gamla testamentið snertir, þá var sannarlega við byrjan 19. aldarinnar reynt til að tæta það sundr með hinni óvægilegustu ,kritík' eigi síðr en nú er gjört í byrjan 20. aldar, þó að ,kritíkin' væri þá öðruvísi rökstudd en nú. En hvernig fór? Það komu fram guðfrœðingar, sem gangandi út frá trúarmeðvitund sinni tókst með skargskyggni mikilli, er mótstöðumönnunum var ofvaxið við að eiga, að beina ,kritík' þeirrar tíðar inn fyrir hennar réttu takmörk, og varð afleið-

ingin af því sú, að í mörg ár var gamla testamentið að miklu leyti látið í friði. Hví skyldi þá eigi mega ætla, að Hengstenberg vorrar tíðar*) sé ef til vill þegar fæddr, til þess, þá er tíminn er kominn, að fœra mönnum heim sanninn um það, að ‚kritík' sú, er nú er beitt, sé eins öfgafull og ósönn eins og sú, sem fyrir hundrað árum þóttist ein hafa lykil vizkunnar. Að þeir, sem nú á vorri tíð eru við ‚kritíkina' að eiga, neita því með öllu, að slíkt geti komið fyrir, sökum þess að svo miklu betr sé búið um sannanir þeirra en fyrirrennara þeirra, það er ekkert að marka. Því þannig farast þeirri guðfrœði, sem er við völdin, æfinlega orð, þangað til einnig hennar dagar eru taldir.

En hve fáir eru þeir, sem þekkja sögu guðfrœðinnar? Og hve fáir þeirra, sem muna kenningar hennar um það, hve breytileg er hin „vísindalega" niðrstaða, þegar þeir heyra lærimeistara sína segja og lesa það í bókum sínum, að í aðalatriðum sé það, sem nú er kennt, óskeikult og hafi fullt gildi á öllum tíðum? Vér erum jafnvel að því sjónarvottar, að maðr einn aldrhniginn verðr svo hugfanginn af því, sem nýtt er, að hann í ungœðislegum guðmóði hrópar upp sigrihrósandi: „Vísindin hafa aldrei með sér farbréf fyrir ferð til baka",—gleymandi því, að að eins síðan hann kom til sögunnar hefir guðfrœðin marg-oft ekið aftr heimleiðis.

Sannarlega hefir ‚kritíkin', sem er að rífa biblíuna niðr, sálarháska í för með sér, og ástœðulaust er um hana að tala með léttúð, svo sem væri hún ekkert annað en gleðileg framför í sannleiksþekking. Margr maðr, sem leyfi vill hafa til að lifa án guðs, mun svo hœglega geta notað það vantrú sinni til afsökunar, að vísindin hafi nú sýnt, að biblían sé full af þjóðsögum og æfintýrum.

En allra verst er það fyrir hina ungu guðfrœðinga, er á œskuárunum ætti að verða leiddir inn í ritninguna svo sem hinn dásamlega helgidóm orðs drottins og anda, í stað þess að þeim nú þvert á móti er kennt að þekkja hana sem mjög

*) Ernst Wilhelm *Hengstenberg* (f 1802, d. 1869, á Þýzkalandi) var sá af guðfrœðingum kirkjunnar, sem með sterkustum vopnum og mestum árangri barðist gegn hinni niðrrífandi biblíu-‚kritík' þeirrar tíðar.

ófullkomna bók, óáreiðanlega og fulla af villum og mótsögnum.

Það út af fyrir sig er stór-tjón, að þeir skuli verða að eyða svo miklum tíma til þess að afla sér hinnar þurrustu og andlausustu þekkingar á því, er snertir ritninguna hið ytra. Orðtak eitt alkunnugt hljóðar svo: ,,Vér lærum fyrir lífið, en ekki fyrir skólann.'' En hvaða gagn hafa nú hinir ungu prestar vorir við verk lífsköllunar sinnar af því að vita, hvers vegna sálmrinn sá eða sá, sem Davíð hefir verið eignaðr, geti ekki verið eftir hann, — hvernig á því standi, að þar geti ekki verið spádómr um Krist, eins og almennt er álitið og ef til vill er vottað í nýja testamentinu, og hvers vegna hann sé í letr fœrðr mörg hundruð árum eftir Davíð? Þetta væri þó sök sér, ef það jafnframt væri fyrir þeim skýrt, hvað er hið verulega guðlega efni í sálminum. En svo skotin er nútíðar-,kritíkin' í sjálfri sér, að hún sinnir nálega ekki kjarnanum, þá er hún hefir lokið því hlutverki sínu að setja fram til sýnis hið ljómanda ,,vísindalega'' hismi, sem alls ekkert innihald hefir, það er komið geti guðlegu lífi að notum, og er því með öllu óviðkomanda, — allar kenningarnar um það, hve nær ritin sé í letr fœrð, hver sé höfundrinn, og því um líkt, sem allt er þess eðlis, að hið bezta, sem um það verðr sagt, er það, að það skaðar engan að vita það. Tíminn, sem til þessara frœða er eytt, er þó hið minnsta. En hugsi menn nú um það, hvílíkr efi, hvílík barátta hlýtr að rísa upp í hjörtum hinna ungu manna, er iðulega — og aldrei öðruvísi—verða að eiga við ritninguna sem mannaverk án þess að neinu minnsta leyti að læra að þekkja hana sem óskeikult guðs orð. Þeir læra það, að ,,vissulega geti sannleikrinn algjör aldrei komið út í hinum takmörkuðu umbúðum stundlegleikans''—og að ,,ekki heldr í nýja testamentinu sé hann að finna''; vitnisburðr biblíunnar hafi því ekki aðra þýðing en það, að vera undirstaða trúarinnar á öllum eftirfarandi tíðum; en eftir því, sem eg fæ skilið, er þetta ekki meira en segja mætti einnig um orð Múhameðs, að því er snertir Múhameðs-trúna. Eins og í hinni helgu bók Múhameðs-manna, kóraninum, er lagðr grundvöllr Múhameðs-trúarinnar á öllum síðari tíðum, eins á

kristindómr allra síðari tíða rót sína að rekja til biblíunnar, hinnar helgu bókar kristinna manna. Þetta er allt, sem guðfræðin nýja, sem ‚kritíkin' er samfara, telr biblíunni til gildis umfram allar aðrar gamlar bœkr. Að öðru leyti er hún — sökum hins mannlega uppruna síns frá Móses, Davíð, mörgum ókunnum höfundum, guðspjallamönnum og postulum — full af margskonar villum, misskilningi og mótsögnum og öllu því, er virðist gjöra það torvelt og jafnvel ómögulegt, að menn geti byggt trú sína á henni sem óbifanlegu orði guðs. Og einmitt allir þessir ímynduðu ófullkomleikar ritningarinnar eru það, sem lögð er áherzlan á að hinir ungu guðfrœðingar gjöri sér ljósa. Það einmitt, að sitja á rökstólum til þess að kveða dóm upp yfir hinum helgu rithöfundum, pína þá til sagna og gruna þá um skynbragð á efni því, er þeir fœra í letr, og um vilja til að segja satt frá, það er eitt aðal-hlutverk þessara ungu manna, sem fremr öllu öðru riði á því að nema staðar frammi fyrir orði því, er þeim er kennt að dœma svo spjátrungslega um, — já, nema staðar og í guðrœkinni auðmýkt segja við hann, sem fyrir anda sinn er í orðinu: „Tala þú, herra! því þjónn þinn heyrir.“

Ekki er því neitt að furða sig á því, þótt eg hafi heyrt unga guðfrœðinga segja, að bezti árangrinn af guðfrœðisnámi sínu væri það, að þeir væri komnir út yfir allar freistandi efasemdir, sem trúnni þeirra hefði verið búin í daglegu starfi þeirra, svo að nú væri þeir brynjaðir gegn öllum árásum á trúverðugleik ritningarinnar, er þeir hér eftir kynni að heyra um. En vissulega hlýtr þó söfnuðr guðs ekki að œskja þess, að ungu mennirnir úr þeim hópi sé á námsárum sínum látnir verða fyrir þeim áhrifum, er freista þeirra sem allra mest í trúarlegu tilliti og leiða þá út í baráttu þá, sem all-flesta þeirra mun skorta andlegan þroska og lífsreynslu til að komast klakklaust út úr. Að sá, sem fyrir náð guðs vinnr sigr í baráttunni, grœðir á því, réttlætir það engan veginn, að „mönnum sé steypt í sálarháska“ og margir vissulega leiddir til þess með öllu að falla frá trúnni — með því að gjöra guðs orð að mjög vafasömu manna-orði.

Eg játa því þannig fyllilega, að biblíu-‚kritíkin' eins og

með hana er farið á vorri tíð, getr orðið vantrúnni ágætt skálkaskjól og stórkostlega hættuleg óreyndum mönnum trúuðum, einkanlega hinum ungu guðfrœðingum.

En hins vegar mun reyndin verða sú, að biblíu-,kritíkin', þegar litið er til heildarinnar, hefir alls engan mátt í sér til þess að vinna trúnni tjón, svo framarlega sem trúaðir menn í fullri alvöru átta sig á því, hvað þeirra eigin reynsla vitnar um ritninguna sem guðs orð, og laga vörn þá fyrir orðinu, er þeir halda uppi, eftir þeim vitnisburði. Látum vantrúna og hálf-trúna og ,kritíkina' segja, að ritningin sé að eins óbreytt manna-orð. Fyrir stuðning þann, er reynslan hefir veitt trúnni, segir hún allt eins fyrir því, að ritningin sé tal guðs anda, guðs orð í munni manna. Hér ríðr á því, að trúin láti ekki veiklast, heldr standi stöðug og sterk á grundvelli fullvissunnar um það, sem hún hefir persónulega reynslu fyrir og reynir aftr og aftr, að því er snertir hinn einstaklega heilaga mátt orðsins. Ef trúin hér gleymir sjálfri sér og lífi sínu hið innra í sálinni, þá má að því vísu ganga, að hún lætr yfirbugast og sleppir haldi sínu á orðinu sem innblásnu af heilögum anda; og svo verðr loks niðrstaðan í meðvitundinni sú, að biblían skari að eins að því leyti fram úr öðrum góðum bókum, kristilegum eða ekki kristilegum, að hún hefir frá öndverðu fylgzt með söfnuðinum og þannig á öllum tímum haft þýðing fyrir hann að því er undirstöðu hans snertir. En með því móti verðr næsta lítið úr vissu trúarinnar. Því þá er undirstaðan hið mannlega orð Páls, Jóhannesar, guðspjallamannanna, en aldrei orð *guðs*.

## Crossing the Bar.

Allir, sem nokkuð þekkja til ljóða *Tennysons*, hins víðfræga og ágæta stórskálds Breta, kannast við smákvæði hans með fyrirsögninni *Crossing the Bar*, einkum fyrir þá sök, að samkvæmt fyrirmælum höfundarins sjálfs er það í öllum útgáfum af ljóðasafni hans prentað allra seinast. Það á líka einkar vel við, því skáldið er þar að tala um dauðann — sinn eigin yfirvofanda dauða. Hann lýsir því þar, hvílíkr sá

dauðdagi sé, sem hann þráir fyrir sjálfan sig. Kvæðið er gegnþrungið af kristinni trú og yndislega fagrt.

Í fyrsta bindi hinnar nýju útgáfu af ljóðum vinar vors séra Mattíasar Jokkumssonar (Seyðisfirði 1902) kemr nú meðal annars þetta litla kvæði af honum þýtt á íslenzku. En svo margt og mikið sem séra Mattías hefir vel gjört í skáldskaparlegu tilliti bæði að fornu og nýju, og svo mikill völundr sem hann vitanlega er að því er ljóðagjörð snertir, þá vantar þó vissulega fjarska-mikið á, að þessi kvæðisþýðing sé vel af hendi leyst. Hann fær þar að sumu leyti allt annað út en liggr í frumkvæðinu. Hann skaðskemmir það bæði í trúarlegu og skáldskaparlegu tilliti. Þetta stafar víst fremr öllu öðru af fjötrum þeim, sem lögmál íslenzkrar rímsmíðar leggr á þá, er yrkja á vorri tungu. Líklega hefði þó annað eins skáld og séra Mattías getað gjört hér betr, ef hann hefði lagt sig allan fram.

Vér setjum hér kvæðið á ensku og kvæðið í íslenzku þýðingunni hvort við annars hlið til samanburðar:

Sunset and evening star,
And one clear call for me!
And may there be no moaning of the bar,
When I put out to sea,

But such a tide as moving seems asleep,
Too full for sound and foam,
When that which drew from out the boundless deep
Turns again home.

Twilight and evening bell,
And after that the dark!
And may there be no sadness of farewell,
When I embark;

For tho' from out our bourne of Time and Place
The flood may bear me far,

Bjart skin og blíðu-kvöld
og boð um héðanför,
en hvorki sút né sorgartjöld,
er set eg út minn knör.

Gjör sléttan, Hrönn, þinn hjúp,
það hœfir ferðum þeim,
er það, sem eitt sinn ól þitt djúp,
skal aftr hverfa heim.

Kvöldfró og klukknahljóð
og kyrrð við dagsins lát,
en hvorki sút né sorgarljóð,
er set eg út minn bát.

Á brott frá banastorð,
þó breytist tíð og nöfn;

| | |
|---|---|
| I hope to see my Pilot face to face | eg vona' að sjá þann vin um borð, |
| When I have crost he bar. | sem vísar mér á höfn. |

Hér geta þeir, sem skilja bæði ensku og íslenzku, séð, hve mikið ber á milli í hugsan frumkvæðisins og þýðingarinnar.

Betra er blátt áfram að snúa kvæðinu á íslenzku í óbundinni rœðu á þessa leið:

Sólsetr og kvöldstjarna
og skýr rödd, sem kallar á mig!
Og ekkert kveinanda andvarp í brimgarðinum,
þegar eg legg út á djúpið,—

heldr eins og sofandi lognalda,
þyngri eða fyllri en svo, að nokkurt hljóð
heyrist eða nokkur ólga verði eygð,
þá er það, sem kom utan úr geimnum djúpa,
takmarkalausa,
hverfr aftr heim.

Rökkr og kvöldhringing
og svo nætrhúmið!
En engin hryggð burtfarar-kveðjunni,
er eg stíg á skip.

Því þó að flóðaldan beri mig langt burt
út fyrir takmörk tíma og rúms,
þá vona eg, að eg fái að sjá hafnsögumanninn
minn augliti til auglits,
þegar eg er kominn út fyrir brimgarðinn.

Vilja nú ekki ljóðasmiðirnir íslenzku reyna sig á því að snúa kvæðinu svo, að ekkert af því missist, sem kemr út í þessari þýðing á óbundnu máli?

---

**Bendingar til kirkjugöngufólks,**

sem séra Jón J. Clemens kemr með í blaði sínu *Fold and Flock* (úr „Lutheran").

1. Kom til kirkju í tíma og haf með þér sálmabókina þína.
2. Gakk til sætis þíns kyrrlátlega og siðlátlega.
3. Þegar er þú hefir setzt niðr, beyg höfuð þitt til stuttrar þegjandi bœnar.

4. Karlmenn ætti að taka af sér höfuðföt sín um leið og þeir ganga inn í kirkjuna og ekki setja þau á sig aftr fyrr en þeir eru komnir út.

5. Meðan þú bíðr þess, að tekið sé til, skaltu lesa í sálmabókinni þinni eða hugsa um eitthvað gott. En um fram allt forðast að tala upphátt um hverndagsleg efni.

6. Tak undir alla söngvana í kirkjunni—bæði tónsöngva og sálma.

7. Gakk ekki inn í kirkjuna né út úr henni meðan prestrinn les upp úr biblíunni. Þegar guð talar, þegi öll jörðin.*)

8. Snú þér ekki við til að gæta að þeim, er seint kemr.

9. Þegar barn grætr í kirkjunni, lát þér ekki vera starsýnt þangað, til að verða þess vísari, hver það barn á.

10. Haf ekkert óþarfa-tal.

11. Sof ekki í kirkjunni, ef þú með nokkru móti getr.

12. Enginn hræki á gólfið.

13. Lát sessunaut þinn geta notað sálmabókina þína með þér.

14. Lát ekki á þig yfirskó eða yfirhöfn meðan stendr á söngnum síðasta í guðsþjónustugjörðinni eða blessaninni. Allir bíði þar til algjörlega er úti.

15. Renn biðjanda huga til drottins undir eins og blessanin hefir verið borin fram.

16. Gakk út úr kirkjunni hœgt og stillt.

17. Heilsa þeim, er fyrir þér verða, með handabandi.

18. Kom fram við og við til að taka í hönd prestsins og tala til hans nokkur uppörvandi orð.

19. Gleym því aldrei, að þú ert í guðs húsi.

---

Samningr sá, er kirkjufélagið íslenzka gjörði við guðfrœðiskandídat Pétr Hjálmsson á ársþingi þess síðastliðið sumar, náði eigi lengra fram en til ársloka. En nú hefir forseti félagsins upp á væntanlegt samþykki næsta kirkjuþings falið honum á hendr að halda míssíónera-starfinu áfram allt fram að þingtíma í sumar komanda, og góðfúslega hefir hr. Pétr tekið það að sér.

*) Ekki heldr meðan stendr á bœnagjörð—vildum vér bœta við.— Ritst.

Hann dvaldi í Janúarmánuði í Pine Valley byggð suðaustantil í Manitoba, þar sem í Desembermánuði 1901 var myndaðr söfnuðr með nafninu Fagradalssöfnuðr, er þó ekki enn hefir gengið inn í kirkjufélagið, og í Íslendingabyggðinni þar skammt frá í suðri—inni í Minnesota—, er kennd er við Roseau; þar er Lúterssöfnuðr, sem heyrir kirkjufélagi voru til, en hefir að undanförnu mjög lítillar prestsþjónustu notið. Um starf hr. P. H. í þessum byggðum er þessi skýrsla frá honum sjálfum:

,,Eg flutti þar sex prédikanir á opinberum guðsþjónustusamkomum; skírði 3 börn, veitti 8 mönnum kvöldmáltíðarsakramentið, frœddi og fermdi 4 unglinga."

,,Þótt nokkrir fáir menn í Lúterssöfnuði vinni af alhug að safnaðar- og kirkjumálum, gengr þó söfnuðrinn til þurrðar, mest vegna þess, hve margir Íslendingar hafa flutt og flytja þaðan burt."

,,Þessu víkr nokkuð öðruvísi við í Pine Valley. Búnaðr og félagslíf er þar eðlilega í barndómi, því Íslendinga-byggðin er að eins tveggja ára gömul. En þar eru þeir, sem manna líklegastir eru til að koma safnaðarlífi í gott horf, ef þeir annars staðfestast þar."

## Til tveggja íslenzkra byggða.

Eftir séra Friðrik J. Bergmann.

Snemma í Ágústmánuði síðastliðið sumar lá leið mín vestr til Minot í Norðr-Dakota. Á heimleiðinni nam eg staðar í Rugby og steig svo á lestina, sem gengr norðr til Willow City að stundu liðinni, en það er að eins stutt leið. Eg kunni ekki við að fara svo fram hjá Mouse River nýlendunni, að eg kœmi þar ekki við, einkum af því eg vissi, að séra Hans Thorgrímsen, sem beðinn hafði verið að fara þangað af síðasta kirkjuþingi, hafði látið söfnuðinn vita, að honum væri það ekki hœgt að svo stöddu. Frá Willow City ók eg 18 mílur um kvöldið til nýlendunnar, kom á heimili Guðmundar Frímanns, helzta bóndans þar, og var þar vel tekið við mér. Þar dvaldi eg allan viðstöðutímann, sem var frá því á mið-

víkudagskvöld 4. Ág. og þangað til á mánudagsmorgun 11., nema hvað eg fór nokkuð fram og aftr um byggðina. Fólkið var mér hér um bil allt kunnugt; nokkuð af því úr prestakalli mínu og margt úr norðrhluta íslenzku byggðarinnar í Pembina Co. Hafði eg fermt mjög margt af því á þeim árum, sem eg þjónaði þar norðr frá. Mér virtist fólkið allt fagna yfir komu minni, því langt var nú liðið síðan þar hafði íslenzkr prestr verið. Og þá þótti mér ekki síðr vænt um að endrnýja fornan kunningskap, enda var fólkið mér undr gott. — Eg flutti þar tvær guðsþjónustur í sama skólahúsinu, til þess allir gæti komið, aðra á laugardaginn 9. Ág., hina á sunnudaginn 10. Við þær guðsþjónustur skírði eg tíu börn og talaði út af fráfallli tveggja roskinna kvenna, sem létust þar báðar sama daginn, 18. Marz síðastliðið vor. Félagskapr virtist mér góðr með þessu fólki og hugsunarháttr í flestum efnum eins, að svo miklu leyti sem eg gat um hann dœmt.

Heyskaprinn stóð þar yfir um þetta leyti, og er það uppskerutími þeirra. Vinnr þá hver, sem vetlingi getr valdið. Hvergi í heiminum mun heyskaprinn vera meiri en þarna og hvergi hrúgað upp öðrum eins firnum af heyi á stuttum tíma, enda eru áhöldin, sem þar eru notuð, bæði einkennileg og hentug.

Aðra ferð gjörði eg til íslenzku nýlendunnar í grennd við Morden hér í Manitoba, sem oft er nefnd *Rússland*, vegna rússnesku nágrannanna, sem þar eru; það var rétt fyrir jólin. Sú nýlenda hefir að lang-mestu leyti myndazt af fólki, sem áðr hefir búið í ísl. nýlendunni í Pembina Co. Eg kom þangað laugardaginn 20. Des., prédikaði þar í tveimr skólahúsum sunnudaginn 21., skírði þar átta börn og ók svo suðr til Walhalla um nóttina. Viðstaðan var stutt, en mjög ánœgjuleg. Eg var gestr Tómasar Jóhannssonar, bróður séra Árna heitins Jóhannssonar, prests í Glæsibœ. Hann og fólk hans voru nokkur ár sóknarbörn mín á Garðar. Byggðin er ung, en mjög álitleg, allir vel ánœgðir og efnalega í furðu-miklum uppgangi. Sigfús S. Bergmann, frændi minn, sem mjög hefir gengizt þar fyrir félagskap þessi þrjú ár síðan byggðin hófst, var nú á förum vestr að hafi, og heyrði eg, að hans var saknað af öllum. Fólkið er flest mjög kirkjulega hugsandi og

lætr sér einkar annt um, að kristindómr og góðir siðir haldist þar.

---

Séra Jón J. Clemens, sem nú þjónar tveim ensk-lútersk-um söfnuðum í Ellsworth og River Falls í Wisconsin, er fyrir skemmstu byrjaðr á því að gefa út dálítið kirkjublað á ensku fyrir prestakall sitt. Það heitir *Fold and Flock* („sauðahúsið og hjörðin"). Sem sýnishorn af lesmáli þess blaðs komum vér nú í „Sam." með „bendingar til kirkjugöngufólks". „Sam." hefir lengst af átt örðugt uppdráttar með allt ísl. kirkjufélagið á bak við sig. En þarna er byrjað á ensku blaði fyrir eina tvo fremr fámenna söfnuði, og framtíðarhorfur þess í fjárhagslegu tilliti virðast hinar beztu. En aðal-tekjugrein þess eru víst auglýsingarnar, sem í því koma út,—einar 40 auglýsingar í hverju nr. i. Hve nær skyldi Íslendingar í því tilliti gjöra eins vel?—verða eins fúsir til að styðja sitt kirkju-málarit, miklu stœrra, með auglýsingum?

Væntanlega verða einhverjir af vinum séra Jóns Clemens innan ísl. kirkjufélagsins til þess að gjörast áskrifendr að blað-inu hans. Og með því viljum vér mæla.

---

**Postulasagan** (þ. e.: Gjörðabók postulanna) var þegar fyrir nýár komin út frá nefndinni í Reykjavík, sem er að eiga við endrskoðan biblíuþýðingarinnar íslenzku. Það rit er í miklu stœrra broti og prentað með stœrra letri en guðspjöllin, sem áðr voru gefin út. Verðið er 50 aurar á Íslandi. Postula-sögunni eiga síðar að fylgja prentaðar athugasemdir til skýr-ingar ýmsu þar, sem að einhverju leyti er torskilið. Sá af nefndarmönnum, sem mestan á þátt í þýðing þessa rits, er séra Þórhallr Bjarnarson, forstöðumaðr prestaskólans. Post-ulasagan með hinum væntanlegu skýringum myndi vera hentug fyrir sunnudagssksóla vora hér og ætti því að geta gengið hér nokkuð út.

---

— Argyle-söfnuðir í Manitoba (Fríkirkjusöfnuðr og Frelsis-söfnuðr) hafa sent prestsköllun til séra Friðriks Hallgríms-sonar að Útskálum. Og með því að áðr var vitneskja frá honum komin um að hann myndi vera til með að gjörast prestr hér vestra í sambandi við kirkjufélag vort, þá er sterklega bú-izt við, að hann taki þessari köllun.

— Á Gimli í Nýja Íslandi er verið að mynda bandalag fyrir unga fólkið í söfnuðinum þar. Séra Rúnólfr Marteinsson hefir gengizt fyrir því að koma þeim félagskap á.

— Í haust, sem leið, bauð bandalagið í Selkirk bandalag-inu í Fyrsta lúterska söfnuði í Winnipeg til sín á sérstaka

samkomu. Samskonar heimboð hefir hið síðarnefnda bandalag hins vegar í þessum mánuði haldið bandalaginu í Selkirk.

---

**Stór bókagjöf.** Hr. *Jón Gottvill Pálmason* úr Íslendinga-byggðinni í Alberta hefir gefið bókasafni kirkjufélagsins rúm sjötíu bindi af íslenzkum bókum eða á öðrum tungum eftir ísl. höfunda—flest af þeim frá föður hans, Pálma heitnum Jónssyni (af Skaga), sem drukknaði í Rauðárósum á leiðinni frá Íslandi til Nýja Íslands 1876. Enn fremr talsvert af íslenzkum handritum, rímum, sögum o. s. frv., flestu fremr illa útleiknu. Og loks nokkrar danskar og þýzkar bœkr, gamlar og rotnar. Bókagjöfin í heild sinn er stór-þakkarverð. Þessar eru ísl. bœkrnar prentuðu eða eftir ísl. höfunda: 1. Ný fél. rit, 21—23, Kh. 1861—3. 2. Forngripasafn Ísl. I. (Kh. 1868) og Handritasafn Bókmenntafél.s (Kh. 1869)—sambd. 3. Páll Melsteð: Nýja sagan, 1. og 2. h., Rvík 1868 og '70. 4. Ísl. fornbréfas. I. (Rvík 1857) og sbd. Stjórnmálatíð. I. (Rvík 1855). 5. Ísl. fornbr.s. IV, Rvík 1876. 6. Skírnir, Kh. 1875, m.m. 7. Skírnir 1876 og '77. 8. Fréttir frá Ísl. 1876, Rvík 1877, m.m. 9. Fréttir 1874 og '75, Rvík. 10. Jón Ól.: Alaska, Wash. 1875. 11. Stjórnmálatíð. III, 3 (Kh. 1875) og sbd. Landshagssk. V, 5 (Kh. 1875). 12. Páll Melst.: Nýja sagan, III. h. m.m. 13. Safn til sögu Ísl., Kh. 1855—úr 1. bd. (um tímatal og Sturlu). 14. Safn t. s. Ísl., II, 3, Kh. 1876. 15. Andvari, IV, Kh. 1877. 16. Biskupasögur, 1.bd., Kh. 1857. 17. Forngripas. Ísl. II, Kh. 1874. 18. Ísl. sögur, 1. bd., Kh. 1829 (Ísl.bók, Ldn., Heiðarv.s.). 19. Eyrbyggja, Leipzig 1864. 20. Njálssaga, Kh. 1772. 21. Sturlunga I., Kh. 1817. 22. Nockrer Marg-Frooðer Sögu-Þætter Ísl., Hólum 1756. 23. Ísl. sögur, II, Kh. 1849. 24. Björn Gunnl.s.: Landmæling—óbd.—Kh. 1868. 25. Sönn Guðhræðsla, óbd. og án titilbl. 26. Laxdœla, Akreyri 1867. 27. H. Kr. Friðr.s.: Þýzk málm. lýs., Rvík 1863. 28. Espól.: Langbarðasögur og Gota og Húna, Akreyri, og sbd. Þjalar-Jónss., Rvík 1857. 29. Skírnir 1827—'34, sbd. án titilbl. 30. Jurtakver, brot, rytja. 31. Möllers leiðar.v. til að lesa bibl., þýð. P. Pét., Rvík 1862. 32. Vatnsdœla, Akreyri 1858, og sbd. Scipíonssaga, og Gísla s. Súrssonar, Kh. 1849. 33. G. Oddsson: Orðabók, Kh. 1819. 34. Karlamagnús saga, Kh. 1853. 35. O. Hjaltalin: Grasafrœði, Kh. 1830. 36. Himinsvegr, brot, óbd. 37. Svb. Hallgr.s.: Dönsk lestrarbók, Akreyri 1856. 38. Egilssaga, Rvík 1856. 39. Eir. Magn.: Bréf frá París, 1865; Hjaltalín og vís., Akreyri 1857; Homöop. á borð við allop., Akreyri 1857—sbd.

41. S. B. Sívertsen: Leiðarv. í reikn., 2. útg., Rvík 1854. 42. Jón Hjaltalín: Lækningakver, Kh. 1840. 43. Spurningar heilbrigðinnar, þýddar af Sv. Pálss., Kh. 1803. 44. Jón Thóroddsen: Maðr og kona, Kh. 1876. 45. Bastholms Höfuðlærdómar, 2. útg., Viðey 1837. 46. Lærd. lista fél. rit, 2. bd.. Kh. 1782. 47. 5. bd. ('85) og 6. bd. ('86). 48. 7. bd. ('87) og 8. bd. ('88). 49. 13. bd. ('94) og 14. bd. ('96). 50. 3. bd. ('83) og 4. bd. ('84). 51. 15. bd. (án titilbl.) 52. Egg. Ólafss.: Lachanologia, Kh. 1774; J. Þ. Kjærnest.: Leiðarv. til garðyrkju, Viðey 1824; Einf. þankar um akryrkju, Kh. 1771—sbd. 53. Biblíukjarni (Lassenius), Hólum 1744. 54. Alex. Bjarnason: Ísl. drykkurtir, Akreyri 1860. 55. Náttúruskoðari, Leirárgörðum. 56. Vasakver fyrir bœndr o. s. frv., Kh. 1782. 57. Bœnakver, Kh. 1832. 58. Jón Pétrsson: Um icktsyke, Hólum 1782. 59. Halld. Guðm.: Nákv. lýs. á pen. o. s. frv., Rvík 1850. 60. Ísl.s Bergmál o. s. frv., Kh. 1828, á ísl. og dönsku, 11 bls., óbd. 61. Halldór Jakobsson: Chronologiae Tentamen, Hrappsey 1781, án titilbl. og óbd. 62. Fororðningar o. s. frv., snertandi verzlan á Ísl. seint á 18. öld, óbd. 63. Thorl. G. Repp: English Stories, 2d ed., Copenh. 1851. 64. Nord. Tidsskr. f. Oldkdh. II, Kh. 1834. 65. 1. bd. sama rits, án titilbl. 66. J. Hjaltalin: Vandcuren, Kh. 1842 og sbd. Barnsfararsóttin, Rvík 1865, m.m. 67. Annaler f. nord. Oldkdh., Kh. 1849. 68. Sama tímar., Kh. 1848. 69. Sigurðr Guðm.s.: Varabálkr, Akreyri 1872. 70. Jón Pétrss.: Lækn. bók, Kh., m.m. 71. Jón Þorlákss.: Ljóðabók I, Kh. 1842.

Enn fremr hefir hr. *Guðmundr Guðmundsson* (frá Eyrarbakka) í Washington ey, Wisconsin, gefið bókasafninu: 1. Lærd. lista fél. rit, 1. bd., Kh. 1781. 2. Barnaljóð séra Vigfúsar Jónssonar í Stöð, Kh. 1838. Enn fr. 3. Ritaða ættartölu frænda síns Þorleifs Kolbeinssonar á Háeyri og ljósmynd af sjálfum sér og konu sinni.

---

Hr. Ólafr S. Thorgeirsson, 644 William Ave., er féhirðir „Sameiningarinnar".



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið „Kennarinn" fylgir með „Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri „Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa „Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada,—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Ólafr S. Þorgeirsson, Björn B. Jónsson, N. Steingrímr Þorláksson.

Prentsmiðja Lögbergs. — Winnipeg.